þañ tijma/þañ þier skamest ydar nu aꝼ? Þuí ad endalok þeirra Hluta er Daudeñ. Eñ nu þier erud ꝼrelsader ꝼra Syndenne/þa eru þier ordner Guds þionar/ ⁊ haꝼed þuí þa ydar uarn Auöxt til Helgunar/enn ad Endalokonum eilijꝼt Lijꝼ. Þuí Verdlaun Syndarenar er Dauden/Enn Guds Gaꝼa er eilijꝼt Lijꝼ j Drottne vorum Jesu Christo

## Gudspialled skrifar S. Marc. VIII. Cap.



A þeim Dögū/ Þar var eñ margt Folk komed saman/⁊ haꝼde ecke til matar. Jesus kallade þa sijna Lærisueina til sijn/⁊ sagde til þra. Mig aumkar yꝼer Folked þuí ad/ sia

ad sia þu/ ad j þria Daga hafa þeir hia mi
er vered/ ꝛ eckert til Matar haft/ Og ef eg
læt þa fastande heim til sijn fara/ þa van-
megnast þeir a Leidenne. Þuiad sumer vo-
ru langt ad komner. Og hans Lærefueinar
suörudu hönum. Huadan faum vier þau
Brauð hier a Eydemörkū/ so ad vier gietum
þa mettad? Og hañ spurde þa ad. Huörsu
mörg Brauð hafe þier? Þeir sögdu hönum/
Sio. Og hann skipade Folkenu nidur ad set
iast a Jördena. Og tok þau sio Brauden/ þa
ckade ꝛ braut sundur/ ꝛ fieck sijnum Lære-
sueinum ad þeir legdu þau fram. Og þeir
lögdu þau fram fyrer Folked. Þeir höfdu ꝛ
fáa eina Fiska/ ꝛ þa hina sömu blessade hañ/
ꝛ baud fram ad leggia. Eñ þeir neyttu og
urdu metter. Og þeir toku vpp ꝥ yfer var/
sio Karfer med afgangs leyfar. Eñ þeir sm
neytt höfdu voru nær fiorar þusunder/ ꝛ hañ
liet þa j burtu fara

ȣ

*Enn fra eg audru sinne/ æren Lydur ad væ
re/ med Christo/ hann kienner j brioste/ klar vm
Hungred sara/ sedur af sio þa Braudum/ sundur
taldar þusunder/ fiorar/ enn fa þo meira/ Fæde
enn þarf ad snæda*

Attunda

# Attunda Sunnudag ep
## ter Trinitatis

### COLLECTAN

HEyr Herra Gud Himneske Fader/vier bid-
iu̅/Gief oss Anda z Raad þar til ad huxa
þa Hlute sem riettet eru/og sydan þa ad full-
komna med Verkønum: Og af þui vier for-
meigum eckert an þyn/þa vil oss ad lifa epter
þynum Vilia/Fyrer

### Pistilen skrifar S: Pall.
### til Rom. VIII. Cap.

ELskuleger Brædur/Vier erum Skull-
dunautar/enn ecke Holldsins/so ad vi-
er lifum epter Holldenu. Þuiad ef þi-
er lifed epter Holldenu/munu þier dey-
ia. Enn ef þier deyded fyrer Andan Holldsins
Giërder/þa munu þier lifa/ Þuiad huörium
hellst sem Guds Ande stiornar/þeir eru Gu-
ds Syner. Þuiad þier hafed ecke medteked
þrælkunar Anda/so þier þurfed nu aftur ad
rgga um ydur / helldur hafe þier medtekid
arfleidslu Anda/fyrer huörn vier köllu̅ Abba
elskulege Fader. Þesse same Ande ber Vitnis
burd med vorum Anda/ad vier sieum Guds
Syner. Enn fyrst ad vier erum Syner/þa
er

erum vier Erfingiar/ Sannarlega Guds erfingiar/ og Samarfar Christi/ ef vier lijdum med hönum/ vppa þad/ ad vier verdum eirnen med hönum dyrdarleger

Gudspialled skrifar S.
Matth. VII. Cap.



Þann tijma/ Jesus sagde til sinna Lærisueina. Vakted ydur fyrer falsspamönnum/ sem koma til ydar j Saudaklædum/ enn hid jnnra eru þeir glepsande Vargar. Vt af þeira Auörtum meige þier kiena þa. Verda nöckud Vijnberen saman lesen af Þyrnönum/ eda Fijkiur af Þistlönum? So lijka mun huört gott Trie bera godan Auöxt/ enn huört vondt Trie vondan Auöxt. Gott Trie gietur ecke bored

bored vondan Avôxt / + ei helldur giefur ille Trie bored godan Avôxt. Og huôrt pad Trie sem ecke ber godan Avôxt / skal vpphôggvast/+ j Elld kastast. Þar fyrer meige þier wt af þeirra Avôxtum þeckia þa. Þeir mu nu eige aller sem til mijn seiga/Drotten Drotten/inganga j Guds Rijke/ Helldur hañ sem giörer Vilia mijns Födurs/þss a Himnum er Marger munu til mijn seigia a þeim Deige Herra Herra/ höfum vier ecke spad j þijnu Nafne/höfum vier ecke j þijnu Nafne Dióffla wtrekid/+ j þijnu Nafne giördum vær mörg Kraptaverk? Og eg mun þa jata þm ad alldrei þeckta eg ydur/ Fared fra mier aller Jllgiörda meñ

*Varest þier villupresta/vit snauda j Hans Sauda/Ad sonnu eru fyrer innan/allkarger þo vargar/Eik huor Alldin lijka/ epter Giædum sijn fæder/Ei komast vpp til Himna/aller þr Drotten kalla.*

## Niunda Sunnu Dag
### epter Trinitatis

COLLECTAN

Almatt

Ò Almatteuge Eilijfe Gud/Vier bidium/ Lat þijn Myskunar Eyru ætijd vera open til vorra audmiukra Bæna/ z so ad þu giefer oss þad vier girnunst/þa giet þu oss þijna Nad/ ad girnast þad eina sem þier vel þocknast/Fyrer Jesum z cet.

## Pistilen skrifar S. Pall
### 1. Cor. x. Cap.

G O der Brædr/Þetta er skrifad oss til Fyrermyndar/ad vier skulum eige girnast huad illt er/so sem þeir girntust. Giörest z eige Skurgoda þienarar/ lijka so sem nöckrer af þeim vrdu/epter þui sem skrifad stendur/Folked settest nidur ad eta z dreckа/z stod vpp ad dansa. Dryged ecke Hooraner/so sem nöckrer af þm dryg du Hooraner/z fiellu a einum Deige/ þriar þusunder z tuttugu. Freisted z eige Christo so sem nöckrer af þeim freistudu/z fyrerforust af Höggormum. Mögled z ecke/so sem nöckrer af þeim mögludu/z fyrer foorust af Eydeleggiaranum. Þetta allt er skied þm til Fyrer myndar/enn er skrifad oss til Aminnīgar/yfer huöria þessa Heims ende er komen. Fyrer þui/huör hañ lætur sier þikia/þad hañ stande/gaumgiæfe sa ad hañ falle ecke. Ydur hefur eñ nu ecke hendt nema mañleg Freistne

Eins

Enn Gud er trwr sa sem ecke lætur ydur
preistast/fram yfer þad þier kuñed ad lijda/
Helldur giörer hañ þad/ ad Freistingenn fære
þañ Enda/ad þier gieted vel stadest

Gudspialled skrifar S.
Luc. xvi. Cap.



Þañ tijma/Jesus sagde til sinna
Lærefueina. Nockur Mañ audug
ur var þar/sa ed hafde eirn Rads
mañ/sa same var ofrægdur vid hñ
so sem hefde hañ eydt hans Gotse.
Og hañ kallade þañ sama til sijn/ sagde til
hans/Hvad heyre eg þetta af þier? Giördu
Reikningskap af þiñe Radsmensku/ þuiad
þu matt eige hiedan af Radsmensku hafa.

Eñ

Enn Radsmadurenn sagde med sialfum sier/ Huad skal eg tilgióra/ þa minn Herra suipter aff mier Radsmenskunne? Eg duge ecke til ad grafa/ enn eg skömmunst mijn ad bidia. Eg veit huad eg skal gióra/ nær ed eg verd settur af Radsmenskunne/ so ad þeir med take mig j syn Hws. Þar fyrer samankallade hann Sk ulldamenn syns Herra/ + sagde til hins fyr- sta. Huörsu mijked ertu skylldugur mynum Herra? Enn hann sagde/ Hundrad Tunnur Vid smiórs. Og hann sagde þa til hans/ Tak þitt Brief + setst snarlega nidur/ + skrifa Fimm- tyger. Epter þad sagde hann til hins annars/ Enn huörsu mijked ertu skylldugur? Sa sagde Hundrad Mæle kierólld Hueitis. Þa sagde hann til hans/ Tak þitt Brief/ + skrifa Atta tyger. Og Herrann lofade hann ranglata Ra dsmann/ þad hn hefde giórt so forsialega. Þui þessa Heims Börn eru kiænare Sonum Lio sens j sinne Kynslod. Og eg seige ydur/ Gióre ed ydur Vine wt af þeim Ranglætis Ma- mmona/ so ad þa nær ydur þrytur/ ad þeir med take ydur j eilijfar Tiallbwder

*Rægdur Radsmann sagde/ r adugur sier til nada/ Skulldamenn skulu nu giallda/ Skarpsin nader vijst minna/ So hia þeim hafe eg vm tyma/*

*ma/ Hæle þa vellt vr Sælu/ Rade ſo Rijkur ßude/ Ad rijkum Drottne lijke.*

# Tiunda Sunnu Dag epter Trinitatis.

## COLLECTAN

ALmættuge Eilijfe Gud/ ſem aud ſyner þinn Mætt j þui þu þyrmer og myſkunar oſſ. Vier bidium/ Auk og margfallda vid oſſ þyna Myſkun/ So ad vier ſem ſtundum epter þui ſem þu hefur oſſ lofad/ mættum verda hlucktakarar þinna himneſkra Giæda/ Fyrer þin/ ⁊ ct.

## Piſtilen ſkrifar S. Pall

### 1 Cor. xii. Cap.

KJærer Brædur/ Eg vil eige dylia fyrer ydur/ vm þær andlegar Gafur. Þier vited þad ad þier vorud heidner/ ⁊ geingud burt til mallauſra Skurgoda/ ſo ſem þier vrdud tilleidder. Fyrer þui kunngiöre eg ydur/ þad eingen ſa ſem fyrer Guds Anda talar/ formæler Jeſu/ Og eingen fær Drottenn Jeſum kallad/ nema fyrer Heilagan Anda. Giafernar eru marghattadar/ þo er hinn ſame Anden. Þar eru og marghattud Em-

bætt

bætte/enn hin̄ same er Drotten. Þar ern og marghættadar Verkaner/eñ hin̄ same Gud er sem verkar alla Hlute j aullum. Eñ j sierhuer ium einum audsyna sig Giaper Andans til Nytsemdar. Einum verdur giefed pyrer Andā ad mæla ap Visku/eñ audrum verdur gie fed ad tala ap Skynseme/ap hinū sama Anda. Audrum Truan/ap hinum sama Anda. Einum Giöp Lækningaña/ j sama Anda. Audrum Krapta verk ad giöra/Audrū Spa domur/ꝛ audrum ad giora adskilianlega grein Andanna. Einum marghættud Tungumæl einum audrū Vtlegging Tungumælaña. Eñ allt þetta verkar eirn ꝛ hin̄ same Ande/skipt ande sierhuerium/epter þui sem hañ vill.

## Gudspialled skripar S. Luc. xix. Cap:

Vm Þañ tijma/Og þa ed Jesus kom nær ad hañ sa Borgena/griet hann yper heñe/ꝛ sagde. Ep ad þu visser huad ed til þijns Fridar heyrde/þa munder þu nu a þessum þijnum Deige þar Vaktan a hapa/enn nu er þad huled pyrer þijnū Augū. Þuiad þeir Dagar munu koma ypper þig/þad þijner Oviner munu byggia Gervirke j kring

 vm



vm þig/ ⁊ þijn Baurn med þier/ ⁊ vmkring ia þig/ ⁊ a alla Vegu ad þier þreyngia ⁊ þig nidur ad Jördu briota / og ecke munu þeir j þier læta Stein yfer Steine vera / af þuí þu þeckter ecke þinn Vitiunar tijma: Og hañ gieck jñ j Mustered/ ⁊ tok til ad reka wt þa sem selldu ⁊ keyptu þar jñe/ og sagde til þeirra/ Skrifad er/ ad mitt Hws sie Bæna hws/ enn þier hafed giört þad sem añad Spillvirkia jñe. Og huörn Dag kiende hñ j Musterenu. Eñ Kiennemanna höfdingiar ⁊ Skriptlærder/ ⁊ Villdarmenn Lydsins leitudu fast epter ad fyrerkoma hönum/ ⁊ gætu þad ecke funded/ huad þeir skylldu giöra hönum. Þuiad allt Folked hnie ad hm/ ⁊ hlydde hans Ordum

Christur

*Christur af aurleik Altar/kiemur til Jerusalem/griet yfer Glapa lytum/og greiner þad hann meinar/þier kom Hialpar tijme/hardrad þu forsmader/þui fær þu hefnder hardar/og þr ædelegt Kualræde*

# Elleﬅa Sunnu dag ep ter Trinitatis

## COLLECTAN

Almættuge Eilijfe Gud/huers Myskun ad yfergeingur og gnæfer oss/og alla Gitnd vors Hiarta/Vier bidium/Lat þijna Myskun koma yfer oss/og fyrergiefþ oss nadarsamlega/ huad hellst vor Samuiska hrædest og ottast/ᵹ gief betur til vor en vier sialfer þorum ad bidia/Fyrer þinn ᵹ ct.

## Pistilen skrifar S. Pall
### I. Cor. xv. Cap.

G Oder Brædur/Eg aminne ydur a þ Evangelium/sem eg predikade ydur/ huort þier medtokud/i huöriu þier ᵹ standed/fyrer huert þier verded ᵹ sæluholpner/med þm hætte sem eg kunngiörda þ ydur/ef þier hafed þ hallded/vtan ad so sie ad þier hafed til onytis truad. Þuiad eg gaf ydur i fyrstu/huad eg medtok/þad ad Christ

sit sie lijplaaten fyrer vorar Synder/epter Rit ningunum/ + ad hañ sie grafen/ + hañ sie vpp aptur risen a þridia Deige epter Ritningunñ og þad hañ er siedur af Cephas/ + epter þad. af hinum tolf. Og þar epter var hañ siedur meir eñ af fim̃ hundrud Brædrum j señ/ af huórium ad marger eñ lifa til/eñ nockrer eru sofnader. Og epter þad var hañ siedur af Jacobo/þar næst af öllum Postulönum. Og sijdast allra er hañ siedur af mier/so sem af otijmaborum Byrde. Þuiad eg em minstur Postulaña/og eige verdugur ad eg skule Post ule heita/fyrer þad ad eg O þsokti veitte Gu ds Söfnude. Eñ af Guds Naad er eg þad eg er. Og hans Naad medur mier var ei til onytis/helldur hef eg erfidad meir enn þeir aller/eñ þo eg ecke/helldur Naad Guds sem med mier er.

## Gudspialled skrifar S. Luc. v. Cap.

Með Þeim Dögum/Jesus sagde til nöckra þeirra sem treystu vppa sialfa sig/ lijka sem mundu þeir riettlaater vera/ + for smadu adra/þessa Epterlijking. Tueir Meñ geingu vpp j Mustered ad bidiast fyr er/eirn var Phariseus/eñn añar Tollheimtu madur



madur. Phariſearen ſtod ⁊ badſt nu þannen
fyrer med ſialfum ſier. O Gud/ eg þacka
þier þad eg em eige ſo ſem adrer Men̄/ Ræ
ningiar/ O riettvijſer/ Hordoms men̄/ eda ſo ſem
þeſſe Tollheimtumadr/ eg faſta tuiſuar j Viku
⁊ eg gief Tiunder af ollu þui eg a. Og Toll
heimtumaduren ſtod langt j burt fra/ ⁊ villde
ecke vpplypta ſijnum Augum til Himens/ hell
dur barde han̄ ſier a Brioſt/ ⁊ ſagde. Gud/
vertu mier Syndugum lijknſamur. San̄lega
ſeige eg ydur/ þeſſe for meir en̄ hin̄ riettlatur
j ſitt Hws. Þuiad huor ſa ſem ſig ſialfan vp
hefur/ han̄ ſkal nidurlægiaſt/ Og huor ſem ſig
ſialfan nidurlæger/ han̄ mun vpphafen verda

*Tueir Menn true eg ad fære/til Kirkiu sem vilia/Gud sinn bidia bader/ Bersyndugur þo fynde/fyrer Sut med Synda grate/ Sæta Nad og Dader/vel þo Hræsne hæle/hinn fær Lofstyr minna*

## Tolpta Sunnudag ep ter Trinitatis.

*COLLECTAN*

AElmættuge eilyfe Gud/af hvørs Gæfu þ kiemur / ad þyner Christner Menn þiona þier riettelega/ Vier bidium / Veit þu oss/ ad vier/an allrar Hindranar/ mættum þar og odlast/þad þu hefur lofad/Fyrer ꝛc:

## Pistilen skrifar S. Pall. II. Cor. III. Cap/

NAskuleger Brædur/Slijkt Traust hőfum vier til Guds fyrer Christum/ei þad vier sieum af oss sialfum til nyter nőckud gagnlegt ad hugleida/so sm af oss sialfum til/helldur ef vier erum nőckru nyter þa er þad af Gude/sa ed oss giőrer neyta fram̄ ad flytia Embætte hins nya Testamentis/ecke Bokstafsins helldur Andans/þui ad Bokstafuren deyder/en Anden lijfgar. En

ef þad

eþ þad Embætte Daudans/sem a Steinum var grafed med Bokstöfum/hafde þan̄ Biartleik/ad Israelis syner gætu ecke lited j Asionu Moysis fyrer Biartleika saker hans Andlits/sem þo hefur enda. Huórnen skyllde þa ecke myklu meir þad Embætte sem Andenn giefur Biartleik hafa? Þuiad eþ þad Embætted Fyrerdæmingarenar er dyrdlegt/myklu framar mun þa þad Embætte sem Riettlæted bodar/vera dyrdarsamlegt

Gudspialled skrifar S. Marc. VII.: Cap.



OG þa Jesus gieck j burt aptur wr Lanns alfum Tyri + Sydonis/kom þan̄ til Siafarens j Galilea/j midiar By

 gder

ydet þeirra tiu Stadaña. Og þeir leiddu til hans þañ Mañ sem Daufur ✝ Mallaus var/og bædu ad hañ legde Hendur yfer hañ. Og hañ veik hönum afsijdis fra Folkenu/liet sijna Fingur j hans Eyru/hrækte wt/✝ aḃrærde hans Tungu/leit vpp til Himens/andvarpade ✝ sagde til hñs/Ephphata/þad er/opna þig. Og jafnsnart vpplukust hans Eyru/þa vppleystest ✝ eirnen Fiötur hans Tungu/so ad hañ talade riett. Og hañ skipade ad þeir segde þad eige neinum/Eñ þui meir sem hañ fyrerbaud þeim þad/þess meir þa vijdfrægdu þeir þad wt/✝ þa sialfa vndrade þetta næsta miög/seigande. Allt giörde hañ vel/huñad Dauffa lætur hañ heyra/ og Mallausa tala

ỏ

*Blindur og mallaus munde/Madur fa leiddu adrer/fyrer Christ af Edle Astar/adur Lækniss badu/Hann færer fyrst ad Eyrum/ Fingur til Lækningar/tekur a Tungu lijka/talar hann riett vid þetta*

## Þrettanda Suñudag ep ter Trinitatis

### COLLECTAN

O þu

O Þu Almattuge Eilijfe Gud/gef oss Aukning Truarennar/Vonareñar og Kiærleikans/og vier mættum ödlast þad þu lofar/og so ad elska þad sem þu oss bydur/ Fyrer Jesum Christum / ꝛc.

## Pistilen skrifar S. Paall Galat. iii. Cap.

Elskuleger Brædur/ Eg tala epter Mañlegum Plagsid. Eingen forsmaar er Testamentum eins Mans nær þ er stadfest/nie eykur þar vid nöckru. Nu eru þo Fyrerheiten Abraham tilsögd/og j hans Sæd/æige seiger hañ j Sædunum/so sem sie þau mörg/helldur so sem fyrer eitt Sæde/j þinu Sæde huör ad er Christur. Enn þetta seige eg/ad þad Testament sem til forna er stadfest af Gude/vppa Christum/verdur ecke onytt giört/so ad Fyrerheited skyllde fyrer Lögmaaled enda taka/huört ad gefed er fiorum Hundrudum ꝛ þriatijger Aarum/ þar epter. Þui ef ad Arfleifden yrde fyrer Lögmaaled/sañarlega þa er hun ecke gefen fyrer Fyrerheited. Eñ Gud hefur fyrer Fyrerheited gefed hana Abraham. Huartil skal þa Lögmaaled? Þad er sett vegna Yfertrodslunnar/þangad til ad kiæme Sæded huörin fyrer var heited. Eñ þier vited ad Lögmaal

ed er tilſkickad pyrer Einglana/ pyrer Sönd Medalgaungu manſins. En Medalgaungu madurenn er eige ad eins/ einka Medalgöngu madur/ Enn Gud er einn. Huórtenn þa? Huórt er þa Lögmaled j giegn Guds Fyrerheite? Þad ſie þiærre/ Þui ep þad Lögmal være gieped ſem liipgad giæte/ ſannarlega þa kiæme Riettlæted wt ap Lögmaleim. Enn Ritningen hepur þad allt ſmeluckt vnder Syn deñe/ ſo ad þad Fyrerheit ſem er pyrer Truna a Christum giæpeſt þeim ſem trua.

Gudſpialled Luc. x. Cap.



OG Jesus ſnere ſier til ſinna Lærefueina/ og ſagde þm̃ ſierdeilis. Sæl eru þau Augu/ ſem ſia þad/ huad þier ſiaed/ Þuiad eg ſeige ydur/ þad marg

er

er. Spámenn + Kongar villdu hafa sied/ huad þier siaed/ + sau þad eige/ + ad heyra huad þier heyred + heyrdu þad eige. Og sia/ad nú ckur Lögvitringur stod vpp freistade hans + sagde. Meistare/ Huad skal eg giöra/ so ad eg eignest eilijfft Lijf? Enn hann sagde til hans. Huad er skrifad j Lögmalenu? Huörnen les þu? Hann suarade + sagde. Elska skaltu Drottenn Gud þinn/ af öllu Hiarta þijnu/ + af allre Aund þinne/ + af öllum Mætte þijnu/ + af öllu Hugskote þijnu/ og þinn Naunga so sem sialfan þig. Jesus sagde til hans. Þu suarader riett/ Giör þad/ + munntu lifa. Enn hann villde riettlæta sialfan sig/ + sagde til Jesu. Huör er þa minn Naunge? Enn Jesus suarade + sagde. Madur nöckur foor fra Jerusalem ofan til Jericho/ + hrasade a med al Ræningia/ huörier ad ræntu hann Klædum + lemstrudu hann Sarum/ geingu sydan j burt + lietu hann þar epter halfdaudan liggia. Enn so bar til/ad Kiennemadur nöckur foor ofann hinn sama Veg/ og er hann leit hann/ gieck hann framm hia hönum. Slijkt hid sama Levitenn/ þa hann kom nærre þeim Stad/ + sa hnn/ gieck hann þar framm hia. Enn Samverskur Madur nöckur foor vm faren Veg/ kom þar nærre hönum/ + sem hann sa hann/ þa hrærdest hnn

em

og Myskunseme vid han/og gieck ad hönum batt vm Sär hans/hellte þar j Vidsmióre + Vijne/+ lagde hñ vppa sinn Eyk/+ flutte til Herbergis/gaf + giætur ad hönum. Enn annars Dags þar epter þa hañ poor j burt/ tok hann vpp tuo Peninga/og gieck Ærosbwandanum/+ sagde. Gef þu gæt a hönum/+ huad þu leggur meira wt/þad skal eg borga/nær ad eg kiem aptur. Huör þeirra þrigg ia synest þier vera þess Maunge/sem hrasad ur var a millū Rœningiaña? Eñ hñ sagde. Sa sem giörde Myskunar verked a hönum. Og Jesus sagde til hñs/Far þu/+ giör slijkt hid sama

*Hier telur Herran sæla/hreina Læresueina/fyrer Ord og Edla giorder/er þeir sia og heyra/Lærdur j Laugunum spurde/ad Lijfs rad um med Hade/enn Christur Bodorde besta/byd ur honum ad hlyda*

# Fiortanda Sunnudag epter Trinitatis

COLLECTAN

AlmattugeEilijfe Gud/sem ad vardveiter þijna heilaga Kristne med þisse eilijfre Myskun/

skutt/aþ þui ad æn þijn þessur manlegur Veyk=
leike/Vier bidium/lat hana þyrer, þijna Hialp
leidast þra þui sem henne er skadsamlegt/ til
þess sem henne er gagnlegt og heilsusamlegt/
Fyrer. ꝛc:

## Pistilen skriþar S: Paall:
## Gal. v. Cap.

ELskuleger Brædur/Enn eg seige yd=
ur/Ganged j Andanum/þa munu þi=
er ecke þullkomna Girnder ydars Holds
Þuiad Holdded girnest j mote Andanū
ꝛ Anden a mote Holldenu. Og þesser eru
huör j mote ödrum/so ad þier giöred ecke hu
ad þier vilied. Eñ eþ Anden stiornar ydr/þa
eru þier ecke vnder Lögmalenu. Þuiad Holldz
sins verk eru openber/sem ad eru Hordomur/
Frillulijþnadur/Saurlijþe/Lausung/Skurg=
goda dyrkan/Fiölkynge/Fiandskapur/Hatur/
Agg/Reide/Præta/Sundurþyckia/Tuidræ=
gne/Auþundskapur/Manndrap/Oþdryckia/
Oþneitsla/ꝛ þessu lijkt. Vt aþ huöriu eg he
þe ꜳdur þyrer sagt/og seige eñ nu/ad þeir sm̄
slijkt giöra erþa ecke Guds Rijke. Enn hier
j giegn er Auöxtur Andans//Kiærleike/Fög
nudur/Fridur/Polenmæde/Blijdleike/Good=
girne/Tru/Hogværd/Sparneytne/Hreinlijþe
j giegn slijku er ecke Lögmaled. Enn þeir
sem

sem Christo tilheyra/þeir krossfesta sitt Holld
med Girndum + Tilhneigingum

Gudspialled skrifar S.
Luc. XVII. Capit.



J Þann tijma/Og þad skiede so þa
ed Jesus gieck til Jerusalem/ad hn̄
ferdadest j giegnum midla Sama
riam + Galileam. En̄ sem hn̄ gi
eck jnn j nöckurt Kauptun/ mœttu
hönum tiu Lijkþraer Men̄/huörier ad stodu
langt fra/hooftu sijnar Radder + sögdu. Je
su gode Meistare/Myskuna þu oss. En̄ sm̄
hann leit þa/sagde hann til þeirra/ Fare þier
+ syned ydur Kien̄emön̄önum. Og þad skie-
de so/þa er þeir geingu þadan/ad þeir vrdu
hreiner

hreiner. En einn vt af þeim/naar hañ ſa þ ad hañ var hreinn vorden/ ſnere hañ aptur/ loƒande Gud med hærre Rauſt/ + ꝼiell fram a ſijna Aſionu fyrer Fætur Jeſu/giörande hõ num þacker/ + þeſſe var Samverſkur. Enn Jeſus ſuarade + ſagde/ Huört voru ecke tiu hreinſader? En huar eru hiner niu? Funduſt aunguer þeir aptur ſnere/ + giæfe Gude Dyr dena/nema þeſſe Vtlendingur? Og hañ ſag de til hans. Statt vpp + far hiedan/ þuiad þijn Trua giörde þig hiálplegan

Tueir og tuenner fiorer/ toku aller ſenn kalla/ ſpillter Menn og mælltu/ Miukur oſs lækna ſiuka/ Ieſus Orde lioſu/ j einu giorer þa hreina/ Ecke af ollum þackar/ Nema einn med Lofgiord hreinne.

## Fimtanda Sunnudag ep ter Trinitatis

COLLECTAN

Hęrra Gud/ Vier bidium/ Lát þijna ęjduglega Myſkunſeme hreinſa og vernda þijna almennelega Kriſtne/aƒ þui hun aan þijn ei kañ ad vera holpen/þa lattu hana med þin ne Nád og Gæzu jafnan ſtiornaſt/Fyrer/ + c

## Pistilen skrifar S: Pall.

### Gal. v. z vi Cap.

ELskuleger Brædur/Ef vier lifum j Andanum þa gaungum og so eirnen j Andanum/Verum ecke agiarner Hiegoma Dyrdar huör añan innbyrdis ad reita z ofunda. Kiærer Brædur/Ef ad madur verdur j einhuörium Glæp hindradur/þa leidriettid hañ med hogværum Anda/ þier sem erud andleger/og haf gæt a sialfum þier ad þu verder ecke freistadur. Eirn bere anñars Byrde/z so munu þier uppfylla Christi Lögmal. Enn ef einhuör lætur sier þikia þ hañ sie nöckud/sem hañ er þo eckert/ sa tæler sialfan sig. Huör og eirn reyne sijn eigen verk þa mun hañ a sialfum sier hroosan hafa/ enn eige a ödrum. Þuiad huör og eirn mun sijna Byrde bera. Enn sa ed leidriettur verdur mz Ordenu/hann byte hinum allshattudü Giædum sem hañ leidrietter. Fared eige viller vegar/Gud lætur eige ad sier hæda. Þuiad huad Madurenn sæer nidur/þad mun hñ upp skiera. Þuiad huör hann j sijnu Hollde nidur sæer/sa mun af Holldenu Skadseme uppskiera. Enn huör hann j Andanum nidursæer/sa mun af Andanum upskiera eilijft Lijf. Þreytumst vier ecke gott ad giöra/þuiad a sijnum

tijma

Tijma munum vier vpskiera oþreytter. Þar þyrer a medan vier høþum Tijman/ þa giörum gott huörium Manne/eirna mest/ þeim sem eru Truarennar Heimkyñe

## Gudspialled skriþar S. Matth. VI. Cap.



A Þeim tijma/Jesus sagde til siña Lærefueina. Eingen kann tueim ur Herrum j senn ad þiona. Ãnn adhuört hann aþrækker þañ eina/ & elskar hinn annan/eda hañ þyd dest þann eina / og þyrerlætur hinn annann. Eige giete þier Gude þionad / og þeim Mammona. Þar þyrer seige eg ydur/ Vered eige hugsiuker þyrer ydru Lijþe/ huad þier

skulud eta og drecka/og eige halldur syrer ydrũ Lykama/huóriu þier skulud klædast. Eda er ecke Lijsed meir eñ Fædslan/og Lykamenn meir eñ Klædnaduren? Lijted a Fugla Himens/þeir ed huórke sa nie vppskiera/ + ecke heldur safna þeir j Kornhlódur/og sa hiñ him neske Saderen hann fæder þa. Eda eru þier ecke myklu framar eñ þeir? Enn huór ydar gietur med sinne Ahyggiu auked eirne Alen vid sijna Leingd? Og huar til eru þier Hugsiuker syrer Klædnadenum? Hygged ad Akursins Lilin grósum/huórnen þau vaxa/ þau vinna ecke nie spiña/Enn eg seige ydur/ þad Salomon j allre sinne Dyrd/var eige so skrydur sem eitt af þeim. Og ef Gud pryder so Grased þad j Dag er a Akre/ + a Morgun verdur j Ofn kastad/ Skylde hañ ecke myklu framar þad sama vid ydur giöra/o þier lijtelltruader? Þar fyrer skulu þier ecke hugsiuker vera/so seigiande. Huad eigum vier ad eta eda huad eigum vier ad drecka/eda med huörju eigum vier ad klædast? Þuiad epter þessu öllu leita heidnar Þioder. Og ydar Himneskur Sader/hañ veit ad þier þurfed alls þessa vid. Þar fyrer leited fyrst Guds Rijkis/ + hans Riettlætis/+ mun ydur allt þetta tilleggiast. Fyrer þui skulu þier ecke Ahyggiu

bera

bera fyrer Morgundeigenum/huad Morgundaguren mun fyrer sialfum sier Umhyggiu bera. Guórium Deige nærger sijn Plaining
ꝧ

*Tueimur a einum tijma/tionlaust eingen Pionar/Gude og aumum Aude/olijk eru þau Rijke/Hugsinkur huad ma auka/vid hæd sier/vijst er Fæde/Leite þier Lijfs ad Brautum/ lætur Gud allt hitt bætast*

## Sextanda Sunnudag ept et Trinitatis.

### COLLECTAN

HEyr Almattuge Eilijfe Gud/ vier bidium Þitt þijna Nád ætyd vera yfer oss a Bak og Briost/so vier seum þier riettelega undergiefner/og uppvel vor Hiörtu ad girnast þa Náð/ad vier seum reidubuner til allra godra Verka/Fyrer. ꝛ c:

### Pistilen skrifar S. Paall til Ephes. III. Cap.

EG skuleger Brædur/Eg bid ydur þad þier tregest ecke saker mina Hörmunga huöriar eg lijd fyrer ydur/huör yd ar Dyrd er. Þess vegna þa beyge eg

 mijn

mijn Knie fyrer Födur vors Drottens Jesu Christi/ sa sem riettur Fader er/yfer allt þ Fader kallast/a Himnum + a Jördu/þad hñ giefe ydur Krapt/epter Rijkdome siñar Dyrd ar/ad styrkiast fyrer hans Anda j hinum jnn ra Manne/ad Christur fyrer Truna bygge j ydrum Hiörtum. Og ad þier sieud rootfest er + grundvallader j Kiærleikanum/ so þier mættud höndla med öllum helgum/huör ad sie Vijdd + Leingd/Dypt + Hæd. Og ad vi ta eirnen Kiærleikan Christs/sem þo alla vid urkienning yfergeingur/so ad þier uppfylltust med allshættadre Guds gnægd. En hönum sem mættugur er alla Hlute yfergnæfanleg-ar ad giöra/helldur vier bidium/eda skilium/ epter þeim Krapte: sem j oss verkar/þeim sa ma sie Dyrd j Söfnudenum/sa j Christo Je su er/um allar Allder Allda/ Amen

## Gudspialled skrifar S.
## Luc. VII. Cap:

J Þañ tÿma/ Og þad skiede so/ep ter þad ad Jesus gieck til þeirrar Borgar sem kallast Naim/+ hñs Læresueinar geingu marger med hönum/og mÿkell Fiölde añars Fo lks. Pa er hañ tok ad nalægiast Borgarhlid ed/sta



ed/sia þu/þad framliden Madur var borenn
wt/einka Sonur sinnar Modur/ og hun var
Eckia/og mÿkell Fiölde Borgarmaña gieck
wt med heñe. Enn þa ed Drotten leit hana/
hrærdest hañ Myskunar yfer henne/og sagde
til hennar/ Grææt þu eige. Og hañ gieck þar
ad/ ꝛ ahrærde Börurnar. Enn þeir sem bææ-
ru stodu vid/ ꝛ hañ sagde. Þu Vngmenne/eg
seige þier/rÿs þu vpp/ Og sa settest vpp sem
framliden var/ ꝛ tok til ad mæla/ ꝛ hañ gaf
hañ aptur sinne Modur. Eñ aller vrdu otta
slegner/lofudu Gud ꝛ sögdu. Spææmadur
mÿkell er a medal vor vpprisen/ ꝛ Gud hef-
ur vitiad sÿns Folks. Og þesse Saga barst
wt af hönum vm allt Gydinga land / ꝛ vm
öll kringum liggiande Gieröd

*Sart tok signad Hiarta/Sorger Naims bor gar/Jesus Elsku lyser/og Eckiu graten hneck er/Hier kuedur hann af Dauda/hennar einka Son þennan/giefur med glaudu Lijfe godan aptur Modur*

# Seytianda Suñudag eptter Trinitatis

## COLLECTAN

Herra Gud/vier bidiũ/vert þijnu Folke ad þlya Dioþulsins aeggian/og þier eitt umsanlan aþ hreinu Hiarta epter ad pylgia/Fyrer Jesum:

## Pistilen skrifar S. Pall Ephes. IIII. Cap.

Kiærer Brædur/So aminne eg ydur nu/eg Bandinge j Drottne/ad þier gãged so sem verdugt er ydrare Kallan þar þier erud iñe kalladet/mz ollu Lijtelæte + Hoguære/+ med Polenmæde/+ umlijded huor annan j Kiærleika. Vered kostgiæfner ad hallda Eindrægne j Andanum/fyrer Band Fridarens. Eitt Lijkame + eiñ Ande/ so sem þier erud kallader j einne Von ydrar

ydrar Kallanar. Eirn Drottenn/eirn Trua/eirn Skijrn/eirn Gud og Fader allra/sa sem ad er yfer ydur öllum/ og fyrer ydur öllum/ og j ydur öllum.

## Gudspialled skrifar S. Luc. xiv Cap.



A Þann tijma/Og þad skiede so/ad Jesus gieck inn j Hws nockurs Phariseis Höfdingia a Þuottdeige Brauds ad neyta/ og þeir höfdu Vardhalld a hönum Og sia þu/ad Madur nockur vatssiuke var þar framme fyrer hönum. Og Jesus andsuarade/ og sagde til Lögspekinganna og Phariseis so seigiande. Huört leyfest nockud ad lækna a Þuottdaugum? Enn þeir þaugdu vid. Og

Hañ tok þa a honum/læknade hañ ꝛ liet h añ
j burt fara/ſuarade ꝛ ſagde til þeirra. Huers
ydar Aſne eda Naut ſem fellur j Pytt/er
þad eige jafnſnart vtdreiged a Þuottdeige?
Og þeir gaatu honum aungua þar til ſuarad.
Eñ hann ſagde þeſſa Epterlijking til þ
ra/ſem bodner voru/þa ed hañ ſaa/ huorñen
þeir mauttuſt epter hinum fremſtu Sætum/
ſeigiande ſo til þeirra. Naar ed þu verdur
boden af einhuerium til Brudkaups/ þa ſet
þig ecke j hid ædſta Sæte/kañ ſkie þad añar
þier heidarlegre eñ þu ſie boden af honum/og
kome ſa ſem þier baud og hiñ/ꝛ ſeige til þijn/
Gief þeſſum Rwm/og hlioter þu þa med
Kiñroda/ad hafa hid yſta Sæte. Helldur ſo
Naar þu verdur boden/þa far þu og ſet þig
j hiñ yſta Seſſ/ſo ad þa nær ed ſa kiemur/
er þier baud/þa ſeige hañ til þijn/Vinur/þoka
þier vpp betur. Þa mun þier Virding vei
taſt hia þijnum Seſſunautum. Þuiad huer
ſig ſialfan vpphefur/hann mun nidurlægiaſt/
ꝛ huer ſig lijtelæter/hñ ſkal vpphafen verda.

*Drotten Drambs menn friette/ dæme þier huort þad ſæmer/Suida og Sotter græda/ſijdur a helgum Tijdum/Enn Grip ef j Dijked diupa dettur vpp ad rietta? Hræſnarar hier vid veſna/Hann læknar þo Mannen*

# A Michaelis Messu Dag

## COLLECTAN

AlmÆttuge Eilyfe Gud/sem skapad hefur þyna heilögu Eingla/þynum wtvøldum til Styrks og Hialpar j mote margskyns Voda og Haskasemdum þessarar Veralldar/Vier bidium Gief þu oss Nad til þess/ad vier sieum þier þecklater/fyrer sodan Gæfu og alla adra vel giörninga/Og veit oss ad vier med þinne Nad verdum vardveitter fyrer þyna Eingla fra øllum vondum Hlutum/og til alls þess sem þier ma þocknast/Fyrer ꝛc.

## Pistillen wr Openberingar bok S. Johañis xii: Cap.

Ä Þeim Dögum/ Og þar giördest Strijd mijked a Himne/ Michael og hans Einglar bördust vid Drekan/ Drekenn bardest og hans Einglar/ ꝛ yfervunnu ecke/og þeirra Stadur vard eige meir fund en a Himne. Og sa mykle Dreke/ꝛ hiñ gamle Höggormur/sa sem ad heiter. Diöfull og Andskote/vard wtkastadur a Jördena/ huöred alla Veralldar kringluna viller. Og hann vard wtsnaradur a Jördena/og hans Einglar vrdu einnen wtsnarader. Og eg heyrde

Rödd

Rödd mykla á himne seigiande. Nu er Heil sa og Kraptur/Ryke/og Mattur vors Guds vorden hans Christs/med þui hann er vtsna radur sem þa asakade Dag og Nott fyrer Gude. Og þeir hafa hann yfer vnned fyrer Lambsins Blod/og fyrer Orded þeirra Vitnisburdar/og þeir hafa ecke elskad sitt Lijf/ allt til Daudans. Þar fyrer glediest þier Himnar/og þier sem þar inne bwed.

Gudspialled skrifar S. Matt. XVIII. Cap.





Þann tijma/Geingu Lærersueinarner til Jesu/og sögdu. Huör er inn mestur i Himnaryke? Jesus kallade eitt Barn til sijn/og sette þad midt a millum þeirra/og sagde. Sannlega seige

seige eg ydr/nema hier vmsinnest og verded so sem Smabórn/munu hier ecke inganga j Ríke Himnanna. Hvór sialfur sig lækkar so sem Vngmenne þetta/sa er mestur j Ríke Himna na. Og huór sem medtekur eitt huilijkt Vng menne j mijnu Nafne/sa medtekur mig. En huór hann hneyxlar einn af þessum Vesalingum sem a mig trua/þarfara være hm ad Myl nusteirn heingdest vm hans Hals/og være j Siafardiup sócktur. Vei sie Heimenum veg na Hneyxlanna/þar hliota þo ad koma Hneyx laner. Enn vei sie þeim Manne/fyrer huórn ad Hneyxlanen kiemur. En ef þijn Hónd eda þinn Fotur hneyxlar þig/snijd hnn af og snara hó num fra þier. Betra er þier inn ad ganga til Lijfsins halltur og Handarvane/enn þad þu hafer tuær Hendur/og tuo Fætur/og verder j eilijfan Elld kastadur. Og ef Auga þitt hneyxlar þig/þa slijt þad vt/og snara þui fra þier. Betra er þier eineygdum inn ad ganga til Lijfsins/enn þad þu hafer tuó Augu/ og verder j Helvijtiskan Elld kastadur. Siaed til ad þier forsmaaed ecke einn af þessum Vesa lingum. Þuiad eg seige ydr/ad þeirra Eing lar a Himnum/siaa iafnan mijns Fódurs aug lit/ sem er a Himnum

Bórn

*Baurn þau er Brioſten girnaſt/ beſt fallen hier kallaſt/ þui heiter Herran mæte/ Himnarijke ſlijkum/ Eingen ſkyllde angra/ auman Lyd ſem tryde/ þui ytrar Eingla ſueiter/ æ tijd þeirra giæta*

*Heyr þu Himna Styrer/ ſem hefur Eingel mier feinged/ þann er mijn og minna/ mætur jaf nan giæter/ þier vil eg þacker færa/ þydur og bidia ſijdan/ veittu ad vardhalld þetta/ verie oſſ Glæpa foſſe*

## Atianda Sunnudag epter Trinitatis:

COLLECTAN

Styr Herra Gud/ vier bidiũ/ Lat þitt Myſkunar verk ſtyra vorum Hiörtum/ Þuiad an þyn meigum vier þier ei þocknaſt/ Fyrer Jeſum/ ꝛc.

### Piſtilen ſkrifar S. Paall 1. Cor. 1. Cap.

Ooder Brædur/ Þacker giöre eg Gude mijnum jafnan ydar vegna/ fyrer þa Guds Naad ſem ydur er giefen j Chriſto Jeſu. Þad ad þier erud j öll um Hlutum auduger ordner j hönum/ j aullu

Orde

Orde/& j allre Visku/epter þui sem sa Vit-
nisburdur Jesu Christi er stadfastur orden j
ydur. So ad þier hafed aunguan Brest j nø-
ckre Giøf/epter,bijdande Auglysingu vors Dr-
ottens Jesu Christi / sa ad ydur mun stad-
festa allt til Enda/so ad þier sieed ostraf-
faner a Deige Drottens vors Jesu Chri-
sti. Þuiad Gud er trwr/fyrer huørn ad þier
kallader erud til Samlags Sonar hans Je-
su Christi vors Drottens

## Gudspialled skrifar S. Matth. xxi. Cap.



J Þann tijma/ Þa Pharisearner heyrdu
þad/ ad hann hafde mꝺur þaggad þa
Saduceos/samansøfnudust þeir j eitt
[illegible]

Og eirn Lögvitringur af þeim/spurde hann að/freistande hans ꝛ. sagde. Meistare/huört er hið hæsta Boðorð j Lögmalenu? En Je sus sagde til hans. Það/að þu skallt elska Drottenn Gud þiñ af aullu Hiarta þijnu/ꝛ. af allre Aund þiñe/ꝛ. af aullu Hugskote þijnu/ þetta er hið fyrsta og stæsta Boðorð. Enn hitt annað er þessu lijkt/það/að elska skallttu Naunga þiñ so sem sialfan þig. J þessū tueimur Boðorðum er jñbunded allt Lögmal/ꝛ. Spamennerner. En þa Pharisearner voru so til samans komner/spurde Jesus þa að og sagde. Huað virdest ydur um Christ/huörs Son han̄ sie? Þeir sögðu hönū/Dauids. Han̄ sagde þa til þeirra/Huörnen kallar Dauid hiñ þa j Anda eirn Herra? Þar han̄ seiger. Drottenn sagde mijnum Drottne/Sittu mier til hægre Handar/þangað til að eg legg Ouine þijna til skarar Foota þiña. Nu ef Dauid kallar han̄ eirn Herra/huörnen er han̄ þa hn̄s Sonur? Og eingen gat suarað hönum eiñu Orde. Og eige dirfdest nöckur vpp fra þm Deige/han̄ framar að spyria.

*Friette og freistar Drottens/Foringe Laga spekinga/Mesta Bodord ens æðsta/og nær huort þa være/Jesus ansar vijsum/Elskan hrein og greine/a Gude er aullum ædre/Og annad slijkt til Manna* Nitian

# Nitianda Sunnu Dag ep
## ter Trinitatis

### COLLECTAN

Herre þu Almættuge og Myskunsame Gud / wte byrg þu milldelega alla þa Hlute sem oss eru motstadleger/so ad vier liduger j Sælu og Lijfe/mættum j þeim Hlutum sem þier til heyra/med lostugum Huga og Hiarta epterþylg ia og þocknast/ Fyrer Jesum/ꝛc.

### Pistilen skrifar S. Pall Ephes. IV. Cap.

Ma Elskuleger Brædur/ Afleggeð fra ydur epter fornre Breytne/hinn gamla Mañen/sem sig fordiarfar j Girndū Villudomsins. Eñ endurnyest j Anda ydars Hugskots/ꝛ klædest þeim nya Mañe/ sem epter Gude er skapadur/j sañarlegu Rie ttlæte/ꝛ Heilagleika. Huar fyrer afleggeð Lygar og taled Sañleik/huör og eirn vid siñ Naunga/þuiad vier erum jnbyrdis huör ann ars Limur. Reidest og syndgest ecke. Lat ed eige Solena vnder ganga yfer yduare Reide. Gefeð og eckert Rwm Diöflenum. Hu er stoled hefur/sa stele nu eige meir/Helldur erfide ꝛ afle med höndunum/þad gott er/so

ad hann hafe ad giefa þeim sem þurftuger eru

## Gudspialled skrifar S. Matth. ix. Cap.



Þañ tijma/ Jesus stie a Skip/ for hañ yfer vm aptur/ og kom j sijna Borg. Og sia/ ad þr færdu til hñs halfvisen Mañ/ þann er laa j sinne Reckiu. Eñ þa Jesus leit þeirra Tru/ sagde hañ til hins halfvisna. Vert þu hughraustur Sonur/ þijnar Synder eru þier fyrergiefnar. Og sia/ ad nockrer af Skriptlærdum sǫgdu med sialfum sier/ Þesse Gudlastar. Og sem Jesus sa þeirra Hugreñingar/ sagde hañ. Huar fyrer huxe þier so vondt i ydrum

j ydrum Giörtum? Huört er audvelldara ad seigia/þier eru þijnar Synder fyrergiefnar/ ellegar ad seigia/Stattu vpp ꝛ gack? En ſo ad þier vited/þad Mannsins Sonur hefur magt a Jördu til ad fyregiefa Syndernar. Þa ſagde hañ til hins halfviſina. Statt vpp tak j burt Sæng þijna/ꝛ gack j þitt Hws. Og hañ ſtod vpp og for j ſitt Hws. En þa Folked ſa þtta/vndrade þad/pryſande Gud ſa ed þuiliꝁa Magt hefde Mönnunum giefed

*Baru Bragnar fiorer/ Buken Lima falls ſiukan/fyrer Christ med tryggu Trauste/ Tal ar hann þa vid Mannen/vertu hrauſtur j Hiarta/hrein er Sálen Meina/Fardu hinn foota ſtirde/fus til þinna Huſa*

## Tuttugaſta Sunnudag epter Trinitatis.

### COLLECTAN

HErra Herra Gud/Vier biddium/veiteu mildelega þijnum Trulyndum Lykn og Nad/ ſo ad bæde hreinſeſt þeir af ſijnum Syndum/ og med hreinu Hiarta þier þione/ Fyrer Jeſum Chriſtum þinn elſkulegan Son vorn Drotten ꝛ Herra.

O ij Piſtilen

## Pistilen skrifar S. Paull
## Ephes. v. Cap.

SOo vered nu Bræður/Siaed so til/ad þier
gangeð forsialega/ eige so sem Fauijs-
er/helldur so sem Vijser. Og skickeð
ydur epter Tydene/ þui þad er vond
Tijd. Fyrer þui vered ecke oforsialer/ helldur
skiliande huör ad sie Vilie Drottens. Og dre
ckeð ydur ecke Vijndruckna/þui þar af kiem-
ur saurugt Lijferne. Helldur vppfylleſt með
Anda/og tale huör við añan/af Psalmum +
Lofsaungnum/+ andlegum Kuæðum/syng-
iande og spilande Drottne j ydrum Hiörtum.
Og giöreð Packer alla tijma Gude + Föður
fyrer alla Hlute/ j Nafne Drottens vors Je
su Christi. Og vered huör ödrum vndergief
ner j Guðs Otta

## Gudspialled skrifar S. Matt. xxii. Cap.

Y Þeim tijma/ Jesus suarade og talade
j añad sinn j Epterlijkingum til þeirra
+ sagde. Himnarijke er lijkt þeim Ko
nüge/sem Brwdkaup giörde Syne sijn
um. Og wtsende sijna Þiona ad kalla Boðs
meñena til Brwdkaupsins/og þeir villdu ecke
koma. J añad siñ sende hañ wt adra Þiona/
og



⁊ ſagde. Seige þier Bodsmönonū/Sined/ Mijna Maltijd hef eg tilbwed/mijner Vxat og aled Fie eru ſlatrader/⁊ allt er reidubw ed/komed til Brwdkaupſins. En þeir forſmadu þad og geingu j burt/eirn a ſinn Bwgard/einn añar til ſiñar Syſſlunar/ enn hiner adrer gripu hans Þiona/og logdu þeim Hæd ungar til/og drapu þa. En þa Kongurenn heyrde þetta/vard hañ reidur/og ſende wt ſitt Herlid/og liet fyrerfara þeſſum Mordingium/⁊ breña vpp þeirra Borg. Þa ſagde hañ til ſiña Þiona/Brwdkauped er ad ſonnu reidubwed/enn þeir ſem bodner voru/þeir voru þeſſ ei verduger. Þar fyrer fared wt a Gatnamoten/⁊ bioded til Brwdkaupſins hu orium ſem þier fiñed. Og hans Þionar gein

gu wt a Strætten/og saman sößnudu ollum heim sem þeir þundu/vondum og goodum. Og Brwdkauped vard þullt med Bordsett Folk. Enn þa ed Konunguren gieck jñ ad sia þa sem til Bordsins satu/ Sa hañ þar eitt Mañ/eige klæddan med Brullaups klæde. Og sagde til hans / Vinur/ huornen gieckstu jñ hingad/haßande ecke Brullaups klæde? Eñ hañ þagde. Þa sagde Konguren til siña Þienara. Binded hans Hendur og Fætur/og kasted hönum wt j hin ysstu myrkur/þar ed vera mun Oop og Tañagnistran. Þuiad marg er eru kallader/eñ Fäer Vtvalder.

v

*Synenum Brullaups Bloma/byr sa Rÿkium styrer/Þienara sende syna/ suinnur Giesse ad finna/Bodsmenn brakta hæda/Hirdmenn Kög/og myrda/riett vard reidur Drotten/Rÿkur og hefner a slÿkum*

# Tuttugasta og þyrsta Sunnudag epter Trinitatis

COLLECTAN

HEyr Herra Gud/vier bidium/vardveit þin Lyd med jafnlegre Myskun þinne/og ad hañ mætte þyrer þyna Hlyfing verda þrials

þra

fra øllum motstadlegum Hlutū/ꝛ j godu Fram ferde þynu Nafne jduglega þione/Fyrer Jesum Christum

## Pistilen skrifar Pall Ephes. vi. Cap.

Eſkuleger Brædur/Styrkest j Drottne/ꝛ j Mætte hans Kraptar. Jklæded ydur Guds Herskrwda/ so ad þier gieted staded j giegn Vmsætrum Dioffulsins. Þuiad vier hoffum eige vid Hollð og Blod ad beriast/helldur vid Hoffdingia og Magtarvellde/vid Drottna Veralldarennar/vid Myrkrañ Stiornendur þessa Heims/vid ur andlega Hreckvijse j Loptenu. Þar fyrer taked allan Herskrwda Guds yppa ydur/so ad þier gieted Motstodu veitt a þeim vonda Deige/og ad þier fæed stadest þa allt er vm giort. So standed nu vmgyrter ydar Lendar med Sañleikanum/og skrydder Bryniu ri ettlætesins/ꝛ vm Fæturnar skofatader/so sem reidubwner fram ad fylgia Evangelio Frid arens/Enn vmfram alla Hlute/þa medtaked Skiolld Truarennar/med huorium þier kunned wt ad slöckua aull elldleg Skeyte hins pr ettvijsa. Og grijped Hialm Hialpræđesins ꝛ Suerd Andans/huort ad er Guds Ord



Þañ tijma/Þar var eiñ Kongsmadur/huörs Sonur ad ſiukur la til Capernaum. Þa hañ heyrde þad/ ad Jeſus var komen af Gydinga lande j Galileam/foor hañ til hn̄s og bad hañ/þad hañ fære ofan / og læknade Son hans/þuiad hann være ad meſtu daudur. Þa ſagde Jeſus til hans. Nema ad þier ſiaed teikn ⁊ ſtormerke true þier ecke/ Kongsmaduren ſagde til hans. Herra/far þu ofan adur eñ Sonur miñ andaſt. Jeſus ſagde hönum þa/ Far þu/Sonur þiñ lifer. Og Maduren trwde þeim Ordum er Jeſus ſagde hönum/⁊ gieck þadan. Enn þa ed hann foor

ofan

ofan epter/geingu hans Þienarar j mote hön um/ꝛ kunngiördu hönum seigiande/ Sonur þiñ lifer. Hañ spurde þa þar ad/a hvörium Tÿma þad hönum hefde batnad/ Og þeir sö gdu hönum/ J giær vm siöundu Stund hu- arf fra hönum Kaldan. Þa formerkte Fad eren/ad þad var vm þañ tÿma/a hvörium ad Jesus hafe sagt til hans/ Sonur þinn lifer. Og hañ trude ꝛ allt hans Heimafolk

ỏ

*Christ bidur klockuu Brïoste/Kongur med Hardud aungre/Banvænu Barne sÿnu/Boot vi nna/Hann jnner/Lifer þinn Sonuren liufe/li ha Hrygd/ga til Bygdar/Faderen foor og tru de/og fann þad Orded sanna*

# Tuttugasta og añan Sunnu dag epter Trinitatis

## COLLECTAN

HEyr Herra Gud sem ert vort Skiol ꝛ styr kur/nalægur vertu gudlegum Bænum þin ar almennelegrar Kristne/og huad hellst sem vier þig riettelega vmbidium/mættum þad my skunsamlega þa og ödlast/Fyrer ꝛ c.

O v      Þisti,

KIærer Brædur/Eg packa Gude mij num/so opt sem eg hufa vm ydur/hu ad eg giöre alla tijma j mijnum Bæ num fyrer ydur öllum/ + pa Bæn giö re eg med Fögnude/fyrer pad Samlag sem pier hafed j Euangelio/fra hinu fyrsta Dei ge allt til pessa. Eg em pess hins sama j go du Trauste par vm/ad sa sem j ydur hefur vppbyriad hid goda Verked/hañ mune pad + eirneñ fullkomna/vppa pañ Dag Jesu Christi. So sem ad mier er tilheyrelegt/ ad eg hallde af ydur öllum j pañ Mata/pviad eg hefe ydur j mijnu Hiarta/ j pessum mijnum Fiötrum/j huörium eg forsuara + styrke Euangelium/huar af ad pier aller erud Madar ennar Gluttakarar med mier ordner. Pviad Gud er miñ Vottur/huörsu pad ad mig for lenger af Hiartans gruñe j Christo Jesu/epter ydur öllum. Og pess sama bid eg/p ydar Kiærleike audgest meir + meir/j allre Visku + allre Reynslu/so ad pier meiged reyna huad best er/vppa pad pier siend skyrer/+ hind rumarlauser a pañ Dag Christi/fuller med a võxtu Riettlætesins/huörier ad skie fyrer Jesum Christum/til Dyrdar + Lofs Gude.

Gud



OG Jeſus ſagde til ſinna Lærẽſueina. Himnaríkẽ er líkt vid eirn Kóngung/ ſem reikna villde vid Þiona ſijna. Og er hañ tok til ad reikna/kom eirn þyrer hañ/ſa ed hönum var ſkylldugr tiu þuſund Punda. Enn þa hañ haþde þad eige til ſem hañ ſkyllde giallda/ſkipade Herran ad ſelia hñ hans Hwſþreyu og ſo Börnen/ ⁊ allt þad hñ atte/⁊ borga þar med. Eñ ſa Þion þiell þr am/tilbad hañ og ſagde. Herra/Haþ Þolen mæde vid mig/allt ſkal eg þier giallda. Eñ Herran ſa aumur a þeim Þion/ ⁊ liet hann lauſan/og gaþ hönum vpp Skulldena. Enn þa hañ gieck wt/þann hann eirn aþ ſijnum

Sam

Samlags þionum/ſa ed honum atte ad giall da hundrad Peninga/þann hiñ ſama handtok hann/greip fyrer Kuerkar honum/dro hañ ⁊ ſagde/giallð þad þu ert mier ſkylldugur. Og hans Samlags þion fiell fram til Fota hñs bad hann ⁊ ſagde. Haf Þolenmæde vid mig þuí allt ſkal eg giallda þier. Enn hañ villde ecke/ Helidur foor burt/og liet hañ j Dibly-ſſu/ þangad til hañ hafde borgad ſýna ſkull-ld. Eñ ſem hans Sãþionar ſau huad ſkiede/ vrdu þeir miög hrygguer vid/ komu og kunn-giördu ſýnũ Herra/ allt huad ed giörſt hafde. Þa kallade hñs Herra a hañ/og ſagde til hñs. Þu jllur þion/alla þa ſkulld gaf eg þier vpp/ af þuí þu beidder mig / Huört byriade þier þa ecke myſkunſömum ad vera vid þinn ſam-lags þion/lýka ſem þad eg var þier myſkun-ſamur ? Og hñs Herra vard reidur/og ofur ſellde hann Kuölördunum/þangad til hañ haf-de borgad/allt þad hann var hönum ſkylldug-ur: So mun minn himneſkur Fader giöra vid ydur/ef ad huör ydar ſem eirn fyrirgief-ur ecke wt af Hiarta ſýnum Brodur/ hans Miſgiörder:

ð

*Riettan Reikning atte/Rýkur vid þiona ſlýka/er Skullder gátu ei gollded/ giefur Nad*

*þeim badu/Kuittur þræll Kugan veitte/Kau þu naut hiarta blautum/ Hier vid Herrann reidest/hefner þriot Jllsku fliotum*

*Fromur Faderen Himna/fridar oss þa vier bidium/vill hann ad vær aller/ jnnelega pad minnunst/þo Brædur af Bernsku reidest og brio te oss a mote/lætur ei Nadar niota/nema vær bosum þa kiara*

# A Allra Heilagra Messu Dag.

## COLLECTAN

HErre þu Almattuge eilyþe Gud/sem villder Heilaga giøra alla þyna vtvalda/og elskanlega/j þynum Eingletna og elskanlega Syne lattu oss þeirra Tru Von z Kiærleika epter fylgia/so ad vier med þeim mættū verda Sæluholpner/Fyrer z ct.

## Pistillen wr Openberingar Bok S. Johā. VII. Cap.

A Þeim Døgum. Og epter þad sa eg fiora Eingla standa a fiorum hornum Jardarennar/ og þeir jnne hielldu fiorum Vindum jardarennar/so ad eingen vindz blies a Jør

den

dena nie a Sioen/nie a nöckurt. Og eg sa an̄
an Eingel vpstijga ap vpgaungu Solareñar/
sa hapde Teikn Lipanda Guds/ ꝛ kallade har
re Röddu til hiña piögra Einglaña/ þm sem
giepeð var/ að granda Jörduñe ꝛ Sionum/ ꝛ
sagde. Grandeð ecke Jördunne/ eige Sionū/
nie Trianum/ so leinge þad vier teiknum Pio
na vors Guds j þeirra Eñum. Og eg heyr
da Tölu þeirra sem teiknader voru/ Hundrað
piorar ꝛ piortijger þusunder Israels sona.
Ap Kyne Juda tolp Þusūð teiknad. Ap kyne
Ruben tolp þusunder teiknader. Ap Kyne
Gad tolp þusunder teiknader. Ap Kyne Aser
tolp þusunder teiknader. Ap Kyne Neptalim
tolp þusunder teiknader. Ap Kyne Manasse
tolp þusunder teiknader. Ap Kyne Simeon/
tolp Þusunder teiknader. Ap Kyne Leui/
tolp þusunder teiknader. Ap Kyne Isaschar/
tolp þusunder teiknader. Ap Kyne Sabulon
tolp þusunder teiknader. Ap Kyne Joseph/
tolp þusunder teiknader. Ap Kyne Beniamin
tolp þusunder teiknader. Og epter þad sa
eg/ ꝛ sia/ að Skare mykell/ huörn að eingenn
gat taleð/ ap öllum Piodum/ ꝛ Folke ꝛ Tun
gumalum/ standa prame pyrer Stolnum/ og
Lambenu/ vmskrydder huijtum Skrwda/ og
Palma vidur j þeirra Höndum. Og þeir köl
ludu

ludu hærre Röddu/ꝛ ſögdu. Heilſa ſie heim̃ ſem a Stolnum ſitur/ vorum Gude ꝛ Lambenu. Og aller Einglar ſtodu vmhuerþis ſtolen/ꝛ kringũ Aulldungana/og vm kring þau fiögur Dyren. Og fiellu nidur fyrer Stolnum fram̃ a þeirra Aſianer/ꝛ tilbædu Gud ꝛ ſögdu Amen. Loff ꝛ Dyrd/ꝛ Speke/Þacker ꝛ Heidur/ꝛ Kraptur ꝛ Styrkleike/ſie vorum Gude/vm Allder og ad eilyfu/Amen.

## Gudſpialled ſkrifar S. Matth. v. Cap.



Og er Jeſus leit Folked/gieck han̄ vpp a Fialled. Og þa han̄ ſette ſig nidur/ geingu hans Lærefueinar til hñs. Og han̄ lauk vpp ſynum Mune/kiende þeim og ſagde

ſagde. Sæler eru þeir ſem andlega eru Vola der/huiad þeirra er Himnarijked. Sæler eru þeir ſem harma/huiad þeir munu huggader verda. Sæler eru Hogværer/huiad þeir mu nu Jardrijked erfa. Sæler eru þeir ſem hun gra + þyrſta epter Riettlætenu/ huiad þeir ſkulu ſadder verda. Sæler eru Myſkũſam-er/huiad þeir munu Myſkun hliota. Sæler eru hreinhiartader/huiad þr munu Gud ſiaa. Sæler eru Fridſamer/huiad þeir munu Gu ds Börn kallader verda. Sæler eru þeir ſm̃ þyrer Rettlæteſins ſaker ofſokter verda/hui ad þeirra er Himnarijke. Sæler eru þier nær ſem Meñerner hallmæla ydur/+ Ofſoku vei ta/og tala j giegn ydur alla Vondſku/ þyrer mijnar ſaker/þo liugande. Fagne þier + ver-ed glader/huiad ydart Verdkaup er gnoglegt a Himnum. Þuiad ſo ofſoktu þeir Spaamen̄ ena/þa ſem þyrer ydur voru.

*Jeſus Ordum lioſum/opt mæler þa Sæla/au ma ſem hafa j Heime/Hrygd/enn lifa med dyg dum/Kiært med hreinu Hiarta/og heita Frid arens leita/Merken huilijk marka/Menn þa Drotten kienna*

Tuttug

